# BARNDÓMSSAGA
# Jesú Krists,

ásamt stuttri frásögu

um

**Jóakim og Önnu**

og dóttur þeirra

**Maríu mey.**

---

**Magnús Grímsson**
íslenzkaði.



---

**Reykjavík.**

Prentuð í prentsmiðju Íslands, hjá E. Þórðarsyni.
1854.

Barndómssaga Jesú Krists, sem hjer kemur fyrir almenningssjónir á íslenzku, er lögð út úr dönsku. Í útgáfu þeirri, sem eptir var farið, er engin grein gjörð fyrir því, hvaðan sagan sje tekin, og því verður það eigi heldur gjört hjer til hlítar. Það eitt er víst, að þó sagan sje, ef til vill, ekki mjög gömul í þeim búningi, sem hún er hjer í, er hún þó dregin út úr og byggð á hinum svo kölluðu „apokrýfisku“ bókum hins Nýja Testamentis, en það eru guðspjöll, brjef og fleiri rit, sem á fjórum fyrstu öldum kristninnar voru eignuð Jesú Krist, postulum hans og aðstoðarmönnum þeirra. Hinir elztu rithöfundar í kristninni (kirkjufeðurnir) vitna opt í þessi rit, en þau hafa þó ekki verið tekin í bókasafn hins Nýja Testamentis. Það hefði, ef til vill, verið rjettast að gefa þessi „apokrýfisku“ rit út, eins og kostur er á, því þá hefðu þau getað komið fram í sínum upprunalega búningi, og þess eru þau í mörgu tilliti verð. En því varð ekki komið við að svo stöddu; það kann að verða gjört síðar.

Þýðandinn.

Jóakim hjet Gyðingur einn. Hann var í góðu áliti hjá landsmönnum sínum. Jóakim var kominn af ætt Júdasar, er var einn af hinum tólf sonum Ísaks Abrahamssonar. Drottinn hafði heitið Abraham því, að af afkvæmi hans skyldi sonur sinn fæðast í þenna heim, og hann skyldi leysa allt mannkynið af syndum þess með fullnægjugjörð sinni, pínu og dauða. Jóakim treysti fastlega þessu fyrirheiti; því hann óttaðist guð, og þjónaði honum í anda og sannleika. Fje því sem hann græddi á hverju ári skipti hann í þrjá hluti; einn hlut gaf hann fátækum, annan guðsþjónustunni, en þriðja hlutann hafði hann sjer og sínum til viðurværis, og af því hann óttaðist guð, auðgaðist hann mjög, og hann átti sjer engan líka meðal Ísraelinga.

Þegar Jóakim var 25 ára gamall tók hann sjer konu, af sinni eigin ætt, niðja Davíðs konungs. Þau voru saman í 20 ár án þess þeim

yrði barna auðið. Einu sinni kom Jóakim í musterið, og ætlaði að færa guði fórn. Þá kom þar að honum maður, sem hjet Rúbín, rak hann á dyr og sagði hann eigi verðan þess að vera í musteri guðs, þar hann ætti ekkert barn við konu sinni; því lögmálið útilykur þá frá musterinu, sagði hann, sem ekkert lífsafkvæmi eiga. Jóakim gekk þá grátandi út úr musterinu, og vildi ekki snúa heim aptur til konu sinnar. Hann tók með sjer hjörð sína alla og kvikfje og fór langt út á eyðimörk; þar dvaldi hann í 8 mánuði svo enginn fann hann. Hann grjet þá beisklega og sagði: Almáttugi guð, miskuna þú mjer og heyr bæn mína.

Þegar Anna, kona Jóakims, heyrði, að hann var burtu horfinn, varð hún mjög hrygg, grjet sáran og sagði: Almáttugi guð Ísraels, því hefur þú tekið frá mjer mann minn, án þess að gefa mjer með honum syni eða dætur? Jeg veit ekki, hvort hann er lífs eða liðinn, eða hvort jeg á að búa til útför hans, eða ekki. Síðan gekk hún út í aldingarð nokkurn, fjell á knje og bað til guðs með grátandi tárum. Hún varð þá vör við fugl, sem átti hreiður með ungum í, uppi í lárviðartrje einu. Þá bað hún guð

auðmjúklega og mælti: Almáttugi guð, þú sem hefur skapað öll dýr og gjört þau frjófsöm hvert eptir sinni tegund, hvers vegna hefur þú synjað mjer þinnar náðar? Þú gafst mjer mann, en hvorki sonu nje dætur til að fórna í musterinu. Þegar hún sagði þetta, birtist henni engill guðs. Hann sagði: Gráttu ekki Anna, því guð hefur bænheyrt þig, og þú átt að fæða það afkvæmi, sem öllum heiminum verður til gleði og blessunar. Að svo mæltu hvarf engillinn frá augum hennar. Hún varð þá mjög hrædd og skalf af ótta, af því að hafa sjeð sjón þessa og heyrt þessi orð. Hún gekk þá inn í herbergi sitt og lagðist á sæng sína, og vissi varla af sjer, en samt sem áður var hún dag og nótt á bæn til guðs síns.

Þar eptir kallaði hún á þernu sína og mælti: Sástu ekki, hversu mikil angist og ótti var yfir mjer, og hvers vegna komstu ekki til þess að hugga mig? Þá svaraði þernan og mælti: Hvað get eg gjört að því þó guð hafi tekið frá þjer manninn þinn og gjört þig ófrjófsama? Þegar Anna heyrði þessi orð þernu sinnar, grjet hún mjög beisklega og bað til drottins.

Um sama leyti kom engill guðs í ungs

manns líki til Jóakims í eyðimörkinni og sagði við hann: Hvers vegna fer þú ekki heim til konu þinnar? Jóakim svaraði: Við höfum verið saman í 20 ár, og hvorki eignazt syni nje dætur; þess vegna gekk jeg út úr musterinu með kinnroða. Hvað á jeg að gjöra heim? Jeg ætla mjer að vera hjer, meðan jeg lifi. Þó ætla jeg að senda fátækum mönnum, ekkjum og munaðarleysingjum, og guðsþjónustunni sinn hluta af fje mínu, eins og að undanförnu. Þá er hann hafði þetta mælt, svaraði hinn ungi maður honum og mælti: Jeg er engill guðs, sem hugsvalaði konu þinni, þegar hún grjet og bað guð, og þú skalt vita, að hún á að fæða þjer dóttur, sem verður hátt upp hafin yfir allan heim, og hennar líki hefur aldrei fæðzt og mun aldrei fæðast í heiminn; því bæði móðir og dóttir munu verða lofaðar sælar af öllum mönnum fyrir sakir Jesú Krists, sem af krapti heilags anda á að fæðast af þessari dóttur þinni, sem kona þín mun fæða þjer. Óttastu þess vegna ekki, heldur snú þú heim til konu þinnar, og lofaðu guð fyrir velgjörninga hans. Jóakim bað þá engilinn að dvelja hjá sjer og mælti: Jeg hef fundið náð fyrir augum þínum og bið

þig því að dvelja nú um stund í híbýlum mínum, og segja mjer, þjóni þínum, hvað mínum herra þóknast. Engillinn svaraði og sagði: Seg ekki, að jeg sje herra þinn; því við þjónum báðir sama herra, og minn mat og drykk mega ekki jarðnesk augu sjá; þess vegna skalt þú ekki biðja mig að koma inn til þín, heldur skalt þú færa guði fórnir. Jóakim tók þá ósaurgað lamb og sagði við engilinn: Jeg fyrirvarð mig svo mjög, að jeg þorði ekki að fórna, fyr en þú bauðst mjer það. Engillinn svaraði og sagði: Jeg hefði ekki boðið þjer að gjöra það, ef það hefði ekki verið vilji guðs. Og á meðan Jóakim fórnaði, steig engillinn upp til himna.

En Jóakim fjell fram á sína ásjónu og lá á bæn í sex daga, og hinn sjötta dag um kvöldið komu sveinar hans til hans, og undruðust yfir þessari athöfn hans. En Jóakim sagðist ætla að fyrirfara sjálfum sjer, og þeir gátu varla reist hann á fætur. Þegar hann sagði þeim, hvað fyrir sig hafði borið, undruðust þeir yfir því, og rjeðu honum að fara heim til konu sinnar og fullnægja skipun engilsins. En er hann var að hugsa um, hvað hann skyldi ráða af,

varð hann hryggur að nýju og fjell í svefn. Þá birtist honum hinn sami engill og áður, og hann sagði: Far þú öruggur heim til konu þinnar; því guð hefur gefið ykkur það lífsafkvæmi, sem engum spámanni nje helgum manni hefur hlotnazt að geta. Þegar Jóakim vaknaði, kallaði hann á þjóna sína, og sagði þeim frá þessari vitran. Þeir báðu hann þá að fara heim og hlýða orðum engilsins.

Jóakim reis þá upp og fór á stað heimleiðis. Þegar hann var nærri kominn heim, kom engillinn til Önnu, þar sem hún lá á bæn til guðs, og sagði: Far þú út á móti manni þínum; við hið gullna hlið muntu finna hann í dag. Hún tók þá með sjer móður sína og gekk að hinu gullna hliði. Þar baðst hún fyrir, og er hún hafði lokið bæn sinni, sá hún Jóakim koma með hjörð sína og kvikfje. Hún varð glöð við, hljóp á móti honum, lofaði guð og sagði: Jeg var ekkja, en nú er jeg það ekki framar. Jeg var óbyrja, en nú er jeg frjófsöm orðin. Og vinir þeirra og ættingjar glöddust mikillega yfir þessu.

Eptir að 9 mánuðir voru liðnir fæddi Anna dóttur, sem hún kallaði Maríu. Þegar María

var orðin 3 ára gömul, gengu þau Jóakim og Anna í musterið og fórnuðu. Þau settu Maríu meðal hinna annara meyja, og þar dvaldi hún dag og nótt í ótta drottins, svo að allir undruðust hana, sem í musterinu voru. Þegar hún var 10 ára var hún fullnuma orðin í vizku og guðlegum fræðum, og því eldri sem hún varð, þess meira jókst henni náð og vizka heilags anda í ótta drottins til allra guðlegra og dygðugra starfa. Hún var og hin fagrasta mey í heiminum; andlit hennar skein sem nýfallin mjöll, og hún var yfir alla fram gædd náð drottins. Sjálf setti hún sjer vissar reglur: tímann frá því á morgnana til *jedel*tíma hafði hún til guðlegra iðkana, frá *jedel*tíma til nunnutíma til góðverka, og tímann frá nunnutíma var hún hvern dag á bæn. Einn engill færði henni mat, til þess hún gæti því betur þjónað guði, og sýnt honum þakklátsemi sína. Meðal allra þeirra meyja, sem hjá Maríu voru, var engin hennar líki í dygðum og siðgæði nje auðmýkt, og engin var sem geymdi boð drottins betur en hún. Hún var hrein og ósaurguð bæði í orðum og verkum, og enginn heyrði hana blóta, sverja nje reiðast. Hún leyfði ekki þeim meyj-

um, er með henni voru, að syndga í orði nje verki. Hún lifði af þeirri fæðu, sem engillinn færði henni, og gaf fátækum mönnum afganginn, og þeir sáu hana tala við engilinn. Allir sjúkir, er hana sáu, urðu þegar heilir og albættir meina sinna. Prestur nokkur, sem hjet Abjatar, vildi, að María giptist syni sínum, og gaf biskupinum í því skyni margar góðar gjafir. Þegar María heyrði það, sagði hún, að það gæti ekki orðið, þar eð hún hefði frá barnæsku lofað guði að vera hrein mey. Þegar hún var orðin 13 ára, tóku Farísear saman ráð sín og sögðu: Að kvinnur mættu ekki biðjast fyrir í musterinu. Þá gengu þeir Abjatar og biskupinn upp á hæsta riðið, vörpuðu hlutkesti meðal lýðsins og sögðu: Þetta musteri var gjört handa Salómó konúngi, síðan hefur það verið haft handa dóttur konungsins, og ýmsum öðrum ríkum og voldugum, sem í því fylgdu sið foreldra sinna. María hefur ásett sjer að þjóna guði, með því að vera mey; þess vegna lízt okkur nú bezt fara, að spyrja guð til ráðs, hver hana skuli geyma. Þetta líkaði öllum vel, sem í musterinu voru, og þeir hlutuðust um hver Maríu skyldi geyma, og fjell hlutkestið á Júda-ætt.

Þá skipaði biskupinn öllum ókvæntum mönnum af þeirri ætt að koma til sín næsta dag með staf í hendinni. Þegar næsti dagur kom, fengu þeir biskupinum stafi sína. Hann gjörði þá bæn sína og talaði við guð, og guð sagði: Settu alla stafi þeirra á altarið, og bjóð þeim að koma aptur á morgun og taka stafina. Þá mun dúfa fljúga upp af endanum á einum stafnum, upp til himins, og eiganda hans skaltu setja til að gæta Maríu.

Daginn eptir komu þeir að nýju, og er biskupinn hafði endað guðsþjónustu sína afhenti hann hverjum sinn staf. Og er hann hafði afhent 3000 stafi, án þess dúfan hefði flogið upp af neinum þeirra, skrýddist Abjatar pretsskrúða gekk inn í kórinn, fjell á knje og bað guð að láta teiknið koma. Þá birtist honum engill, sem sagði: Hjer er einn maður, sem þjer virðið lítils; þegar hann kemur fram, þá mun teiknið verða, eins og guð hefur sagt yður. En það var Jósef, sem var fyrirlitinn, því hann var gamall og ekki í neinum hávegum; hann stóð yzt í musterinu og þorði ekki að koma fram. Abjatar kallaði þá til hans og sagði: Jósef, kom þú hingað og tak við staf þínum! Jósef

skelfdist við þetta og vildi ekki ganga fram. En þegar hann kom og tók við stafnum, flaug dúfan upp; sveif hún fyrst lengi um musterið og síðan til himins. Og allur lýðurinn lofaði Jósef og sagði: Sæll ertu í elli þinni, að þú skulir eiga að geyma Maríu. Þá sagði presturinn við hann: Tak þú hana með fögnuði, því guð hefur valið þig til þess, að geyma hennar. Jósef svaraði og sagði: Hví viljið þjer fela mjer, gömlum manni, hið unga barn til umönnunar? Abjatar svaraði: Minnstu þess að jörðin svalg þá Kóra, Datan og Abíram, af því þeir vildu ekki hirða um boð drottins; eins getur og farið fyrir þjer, ef þú skeytir ekki um vilja hans. Þá sagði Jósef: Fyrst þetta er vilji guðs, þá skal jeg fús til að gjöra það. Látið Maríu halda sínum meyjum hjá sjer. Abjatar mælti: Hún skal halda þeim meyjum, sem áður hafa verið hjá henni, og gleðja sig með þeim þangað til brúðkaupsdagurinn ykkar kemur.

Jósef tók þá Maríu að sjer, og fylgdu henni fimm meyjar, er svo hjetu: Nólíka, Sefóra, Súsanna, Abígael og Nabal. Biskupinn fjekk þær til að vefa purpuravef handa musterinu, því það var heilagt verk. Þær hlutuðust um,

hver vefinn skyldi vinna, og hlotnaðist Maríu það. Hún tók þá þegar til starfa, en hinar meyjarnar sögðu: Oss furðar á því, María mey, að þú, sem ert ótignust allra vor, skulir vera verðugust til að hafa þenna starfa á hendi. En er þær mæltu þetta, birtist þeim engill, sem sagði: Þjer kallið hana mey, en þjer eigið að kalla hana drottningu. Og þar eð hún hafði hinn æðsta starfa, kölluðu þær hana drottningu.

Einn dag þegar María sat við uppsprettulind nokkra, kom til hennar engill og sagði: María, guð hefur valið þig fyrir sinn bústað, og ljós himnanna mun koma yfir þig og upplýsa þig. Þrem dögum síðar kom ungur maður fallegur til Maríu, þar sem hún vann að purpuravefnum. Þegar hún sá hann, varð hún óttaslegin mjög. Þá sagði engillinn við hana: Sæl ert þú María; því þú ert full náðar og drottinn er með þjer. Blessuð ert þú meðal kvenna. Óttast ekki, því þú hefur fundið náð hjá guði; þú munt þunguð verða, og fæða son, og hann skalt þú kalla Jesús. María svaraði: Hvernig getur það orðið, fyrst jeg hef einkis karlmanns kennt? Engillinn mælti: Heilagur andi skal koma yfir þig, og þess vegna skal afkvæmi

þitt kallast sonur guðs. Elisabet frændkona þín skal og fæða son í elli sinni; hún, sem hingað til hefur verið óbyrja; því guði er ekkert ómögulegt. Þá svaraði María: Jeg er þjónustumær drottins; verði mjer eptir hans vilja!

María tók þá eina af meyjunum með sjer og fór til Elisabetar frændkonu sinnar til að vita hvort engillinn hefði sagt sjer sannleika. Þegar Elisabet sá Maríu mey, gekk hún móti henni, tók hana í faðm sjer og mælti: Hvernig stendur á því, að móðir míns drottins kemur til mín? Það er mjer mikill fögnuður, að guð hefur vitjað mín og þessarar sinnar þjónustumeyjar, eins og hann hefur heitið Abraham og afkvæmi hans. María dvaldi hjá Elisabet, þangað til hinn heilagi Jóhannes var fæddur, og nokkurn tíma þar á eptir. Síðan tók hún orlof af henni og fór heim aptur til Nazaret til Jósefs, sem faðmaði hana að sjer og tók við henni með allri siðprýði og kurteysi.

Einn dag þegar Jósef kom heim frá trjesmíði sínu, varð hann þess með blygðun var, að María mey var þunguð. Hann varð mjög óttasleginn, kallaði upp og mælti: Drottinn, tak þú mitt líf af mjer, jeg vil heldur deyja en lifa.

Þá sögðu meyjarnar, sem hjá Maríu voru, við Jósef: Vjer vitum að hún hefur aldrei kennt karlmanns; hún er hrein mey. En engill drottins hefur boðað henni þetta, og heilagur andi hefur komið yfir hana. Jósef vildi ekki trúa þessu og ætlaði að leynast á burt og yfirgefa Maríu. Þá kom engillinn um nóttina, birtist Jósef í draumi og mælti: Óttast þú ekki, Jósef; taktu meyjuna að þjer. Fóstur það, sem hún gengur með, er getið af heilögum anda, og barn það, sem María á að fæða, er sonur guðs, og hann skal heita Jesús; því hann á að frelsa heiminn af syndum hans, og verða konungur himins og jarðar. Þegar Jósef heyrði þetta, varð hann glaður við, sleppti öllum efa og vantrú, gekk fyrir Maríu mey og bað hana fyrirgefa sjer allt það, sem hann hefði brotið gegn henni. María mey játti því með blíðu, og þau lifðu saman með gleði og ánægju.

Þegar 9 mánuðir voru liðnir, kom sá tími, er María átti að fæða Jesúm í heiminn. Um sama leyti var sú skipan gefin út, að hver maður skyldi fara til síns fæðingarstaðar og gjalda Rómverjakeisara einn silfurdal í skatt. Jósef var fæddur í Betlehem, og því fór hann þangað.

Hann tók með sjer Maríu mey og ljet hana ríða asna. Á leiðinni sagði hún: Mjer finnst eins og tvær þjóðir sjeu í kviði mínum: Gyðingur, sem grætur og berst mjög illa af, og heiðingi, sem hlær og fagnar. Jósef spurði, hvort hún vissi, hvað þetta hefði að þýða. Þá svaraði María mey: Jeg ræð það af fóstrinu, sem jeg geng með, að þetta muni bráðum koma fram.

Þegar þau riðu inn í Betlehem var komin nótt, og öll hús voru lokuð. Þá kom engillinn og ljet asnann inn í útihús eitt, sem sonur guðs vildi fæðast í, og Jósef batt asnann við jötuna hjá uxa nokkrum, sem var þar fyrir. María mey fann þá, að sinn tími var kominn, og að nú skyldi hún fæða Jesúm, son drottins, og hún bjó sig undir það með mikilli auðmýkt.

Þegar Jósef varð þess var, að María mey skyldi fæða sinn blessaða son, hljóp hann undir eins út í bæinn til að sækja konur þær tvær, sem vanar voru að vera hjá konum við barnsfæðingar, og tók þær með sjer. En er Jósef var burtu genginn fór Marta mey úr hinum hvíta kyrli sínum, tók klæðið af höfði sjer, leysti upp hár sitt og lagði það á bak sjer aptur, fjell á knje og baðst fyrir. Þá kom yfir

hana ljósgeisli mjög fagur; hún spennti greipar og leit upp til himins, en studdi bakinu við jötuna. Andlitinu snjeri hún í austur, og hún fylltist af náð heilags anda. Þá fæddi hún barnið Jesúm með mikilli gleði og fögnuði, án þess að finna til minnstu verkja eða þjáningar. Þegar María mey sá barnið sagði hún: Vertu velkominn herra minn, þú sem ert guð minn og sonur minn. Barnið fór þá lítið eitt að gráta og skalf af kuldanum, sem lagði upp úr gólfinu. Þá tók María barnið upp, vafði það að sjer og talaði við það mörgum fögrum og blíðum orðum. Því næst lagði hún það á brjóst sjer, settist niður, tók líndúk og vafði um barnið. Hún reifaði það og í ullarvoð, og gekk frá því eins og siður var til, batt klæði um höfuð þess og lagði það í jötuna, því þar var ekkert annað rúm til í húsinu. Uxinn og asninn fóru þá frá jötunni og hneigðu höfuðin, því þeir þekktu herra sinn og skapara. Í þessu kom Jósef aptur; hann gekk inn í húsið með miklum fögnuði og auðmýkt, og er hann sá barnið, fjell hann á knje og gjörði bæn sína til þess. Hinar tvær konur komu með Jósef til Maríu. Þær gjörðu bæn sína til barnsins, og sáu að María mey þurfti

ekki þeirra hjálpar við, eins og aðrar sængurkonur. Þær undruðust mjög yfir því að María hafði mjólk í brjóstunum og ljet barnið sjúga sig. Önnur þeirra þreif hendi sinni til Maríu, en hendin visnaði þegar. Hún grjet þá sáran og bað Maríu mey að miskuna sjer, og barnið að fyrirgefa sjer misverknað sinn, og þá varð hönd hennar undir eins heil aptur. Kona þessi hjet Salma, en hin hjet Nakerta. Þær gengu nú út í bæinn, kölluðu lýðinn saman og sögðu: Við höfum sjeð tákn eitt mikið, því við höfum sjeð hreina mey fæða barn, og hún er öldungis eins og hún hafi ekkert barn fætt, nema að því einu, að hún hefur mjólk í brjóstunum. Að öðru leyti er hún hrein mey.

Þar voru og hirðarar í nágrenninu, því þar er veturinn ekki eins harður og hjer á norðurlöndum. Um miðnættið, þegar hin fagra mey fæddi son guðs í Betlehem, komu englarnir til hirðaranna og sögðu: Vjer flytjum yður mikil fagnaðartíðindi: sonur guðs hefur gjörzt maður og María mey hefur fætt hann í Betlehem. Þeir heyrðu óteljandi marga engla syngja, og lofa guð í himnaríki fyrir sinn elskulega, eingetna son, sem væri stiginn niður til vor vesælla

manna á jarðríki til að frelsa oss frá valdi djöfulsins. Fyrir það sjeu þríeinum guði eilífar þakkir. Hirðarnir gengu þegar til Betlehem til að tilbiðja barnið, og þeir fundu það í jötunni, eins og englarnir höfðu sagt þeim. Daginn eptir fór Jósef út í bæinn og útvegaði María mey annað herbergi til að vera í.

Þessa sömu nótt gekk Ágústus keisari út, honum var þá litið til himins, og hann sá stjörnu eina mjög bjarta, sem skein yfir mörg lönd. Hann sendi þegar eptir vitringum landsins, og bað þá koma og segja sjer hvað þessi stjarna boðaði. En enginn þeirra gat sagt honum það. þá kom til hans kona ein, að nafni Sýbilla; hún sagði: Þessi stjarna boðar það, að hrein mey hefur fætt í heiminn barn, sem heitir Kristur, og er sonur guðs, og sjálfur sannur guð; hann skal verða konúngur í Jórsölum og allur heimurinn á að tilbiðja hann og sýna honum lotningu. Þegar Ágústus keisari heyrði þetta varð hann mjög auðmjúkur í huga; því hann hafði áður skipað að tilbiðja mynd sína, eins og guð, og látið reisa líkneskju sína upp í sínum löndum. Hann ljet nú brjóta þessa líkneskju niður. Þá var og fyrir nokkrum árum

byrjað að reisa musteri í Rómaborg, og [redacted] Rómverjar að smíð þess [redacted] 12 ár, meðan þeir höfðu frið [redacted] landinu.

Þegar musterið var búið fórnuðu þeir skurðgoðum sínum í því og sögðu: Þetta musteri skal standa til eilífðar, og þangað til að hrein mey fæðir barn; því þeir hugsuðu að það gæti ekki átt sjer stað, að hrein mey fæddi barn. yfir musterisdyrnar rituðu þeir þessi orð: *Hið eilífa musteri.* En um miðnætti, nóttina sem sonur guðs, hið blessaða lamb guðs, fæddist, þá varð svo bjart eins og um há dag, og musterið hrundi niður í grunn. Sömu nótt hrundu og öll skurðgoð bæði [redacted] Egyptalandi og Rómaríki um koll. Og jafn vel þó þá væri hávetur, varð þó veðrið svo hlýtt og gott eins og um hásumar, allt grænkaði, og blómgaðist. Trjen í skógnum laufguðust, og aldinin sprungu út þessa sömu nótt, og margir sáu þá á himninum þrjár sólir [redacted] einu.

Þegar barnið var orðið 8 daga gamalt, bauð Jósef til vinum sínum og ljet umskera sveininn eins og fyrir er mælt [redacted] lögmáli Mósis. Og sveinninn var nefndur Jesús, eptir boði engilsins. Þegar sonur guðs var í heiminn borinn, birtist öll-

um mönnum stjarna ein, sem aldrei hafði sjezt áður. Hún ljómaði um allan heiminn og var stærri en allar aðrar stjörnur. Þegar hinir 3 heilögu konungar sáu þessa stjörnu, spurðu þeir vitringa sína hvað hún boðaði. En þeir sögðu þeim að hún táknaði það, að sonur meyjarinnar, Jesús, væri nú fæddur, eins og spámennirnir hefðu löngu áður sagt fyrir. Þá bjuggust hinir þrír heilögu konungar til ferðar, tóku gull, reykelsi, myrru og marga aðra góða gripi með sjer, og hjeldu á stað. Þeir höfðu og með sjer áburðardýr nokkur undir klæði sín og farangur; því þeir áttu langan veg yfir að fara. Þeir fóru eptir stjörnunni, og þeim sýndist hún renna á undan sjer í skýinu; aldrei tálmaði þeim vatn nje illt veður á leiðinni. Þegar þeir komu nálægt Jórsölum gjörði á þá þoku mikla, svo þeir sáu ekki stjörnuna.

Hinir 3 konungar riðu þá inn í Jórsali með miklum veg og sóma, eins og jafn voldugum konungum sómdi. Þeir riðu inn í borgina að höll Heródesar konungs, sendu honum orð og spurðu hvar Gyðingakonungurinn, herra sinn, væri fæddur, og hvar þeir gætu fundið hann. Þegar Heródes og Gyðingar heyrðu þetta, urðu

þeir sorgbitnir og gengu nærri því frá vitinu. Heródes sendi orð vitringum sínum og spurði hvar Kristur ætti að fæðast. Þeir svöruðu: Það er ritað, að sonur guðs skuli fæðast í Betlehem. Heródes gjörði þá hinum 3 heilögu konungum orð og spurði þá hvenær þeir hefðu sjeð stjörnuna. Og er hann vissi það, bað hann þá fara burtu, en koma til sín aptur, þegar þeir væru búnir að finna hinn nýfædda konung, til þess hann gæti einnig farið til hans, fært honum fórnir og vottað honum virðingu sína.

Konungarnir fóru þá á stað aptur, og er þeir komu út úr borginni sáu þeir stjörnuna að nýju; þeir fylgdu henni síðan unz hún nam staðar uppi yfir húsi, sem barnið var í. Þegar þeir komu að bænum fylgdu hirðarnir þeim og sögðu þeim frá öllu, sem þeir höfðu heyrt og sjeð um nóttina, þegar Kristur fæddist. Þeir sögðu enn fremur: Vjer vitum að þjer eruð komnir til þess að sjá þetta barn; það er hið fegursta barn, sem til getur verið í heiminum, og vjer skulum fylgja yður þangað, sem það er. Og þegar hinir 3 heilögu konungar komu til bæjarins tjölduðu þeir og riðu síðan þangað sem barnið var. En áður en þeir gengi fyrir

þenna hinn volduga konung skrýddu þeir sig konungsskrúða, tóku hið kostulega gull, reykelsi og myrru og færðu barninu fórnir, og gengu mjög auðmjúklega inn í bæinn. Þegar þeir komu að húsinu sem barnið var í, stóð stjarn-[redacted] yfir því og ljómi hennar skein inn [redacted] húsið með mikilli fegurð. Hinir þrír heilögu konungar gengu þá fyrir barnið með mikilli auðmýkt. María mey sýndi þeim barnið, [redacted] þeir færðu því fórnir, sem þeir afhentu Maríu. Hún tók við fórnunum með þakklæti og lofaði guð. Konungarnir buðu henni góðar nætur, lofuðu guð og tóku orlof af barninu til heimferðar. Síðan gengu þeir til tjalda sinna og hjeldu sjer gildi um kveldið.

Daginn eptir ætluðu þeir að fara til Heródesar konungs. En [redacted] nóttina birtist þeim engill guðs, sem bað þá að fara aðra leið heim í ríki sín. Og það liðu 2 ár áður en þeir komu heim aptur til sín.

Þegar Heródes komst að því, að hinir þrír heilögu konungar voru farnir heim aptur, varð hann þeim ákaflega reiður fyrir það, að þeir hefðu ekki komið til sín, eins og hann hafði beðið þá um. Hann ljet menn sína veita þeim

eptirför, og ætlaði að láta drepa þá. En guð, sem frelsar alla sína vini, geymdi þeirra fyrir árásum Heródesar og leiddi þá farsællega heim aptur í lönd þeirra.

Því næst ætlaði Heródes að senda menn sína til Betlehem og annara bæja þar um kring, til þess að drepa niður öll sveinbörn, sem þar væru. En þá fjekk hann boð frá keisaranum í Rómaborg að koma á sinn fund; hann gat því ekki við snúizt að framkvæma sitt illa áform með börnin, þar eð hann varð tafarlaust að fara til Rómaborgar, sökum hinna ýmislegu kvartana, sem Gyðingar höfðu gjört um hann við keisarann, fyrir ánauð og rangindi hans við sig. Hann dvaldi eitt ár í Rómaborg, þar eð einn af sonum hans hafði einnig ákært hann fyrir keisaranum.

Þegar Jesús var 30 daga gamall, sagði María við Jósef, að hann skyldi fara með sveininn í musterið eptir lögum Mósis.

Jósef tók þá með sjer móðurina og barnið og fór til Jórsala. Hann gekk í musterið og fórnaði á altarinu þremur dúfum, eins og siður var til hjá Gyðingum. Þar var þá maður einn aldraður, Símon að nafni. Hann hafði beðið

guð að lofa sjer að lifa þangað til drottinn vor holdgaðist og fæddist í heim þenna, og að hann mætti sjá Krist, áður en hann dæi. Hann stóð nú við altarið, tók barnið í faðm sjer og gaf sveininum þann vitnisburð, að hann væri sannur guð, og það barn, sem hann lengi hefði vonað eptir. Og hann sagði: Sæll er jeg, því jeg hef sjeð son guðs orðinn að manni. Hann hóf þá upp rödd sína, söng fagnaðarljóð og mælti: Drottinn, lát nú þjón þinn fara í friði, eins og þú hefur sagt; því mín augu hafa sjeð þá sælu, er þú hefur búið öllum mönnum, ljós til að lýsa heiðingjum og dýrð þíns eigin lýðs, Ísraelinga. En við Maríu sagði hann: Sverð hrigðarinnar mun ganga í gegnum hjarta þitt sakir þessa barns, sem þú hefur nú komið með í musterið, og þessi sveinn mun frelsa allan heiminn með sínum dauða. Þegar þau voru búin að fullnægja boðum lögmálsins, tók Jósef móðurina og barnið og fór fagnandi frá Jórsölum til Nazaret, og þar voru þau á meðan Heródes var í Rómaborg.

Þegar árið var liðið kom Heródes aptur til Jórsala, og er hann kom til valda aptur, sendi hann menn sína til Betlehem og víðar um land-

ið, og ljet drepa niður öll sveinbörn, sem voru 2 ára og þar fyrir innan. Þá kom engill guðs til Jósefs í draumi og sagði: Jósef, tak þú móðurina og barnið og far til Egyptalands, og vertu þar þangað til jeg segi þjer að fara heim aptur; því Heródes lætur leita að barninu og ætlar að myrða það; þess vegna skalt þú flýja. Jósef bjóst nú til ferðar, eins og engillinn hafði boðið honum. Hann tók með sjer 10 asna og einn uxa; hann ljet Maríu ríða einum asnanum, en bar á hinum klæði þeirra, matvæli og annan farangur, og fór svo á stað.

Þegar þau höfðu ferðazt eina dagleið, komu þau á heiði eina mikla, þar sem ekkert hús var, svo þau gátu ekkert herbergi fengið um nóttina. Þau sáu þá tilsýndar eik eina mikla; þangað vildi Jósef fara og gista þar um nóttina, ef hann findi þar nokkurt vatn. Þegar þau komu að eikinni og Jósef fann ekkert vatn, fjellst honum hugur, því þar var gras nóg fyrir uxa hans og asna. María settist þá niður með barnið á knjám sjer. Hún stakk þá fingrinum niður í jörðina og jafnskjótt spratt þar upp tærasta vatnslind. Þau lofuðu guð fyrir þetta tákn, og voru nú glöð við, er þau höfðu nóg vatn

handa sjer og dýrunum. Næsta dag fylltu þau vatnsbelgi sína, og hjeldu á stað með þá. Á leiðinni sá María trje eitt afarhátt og fagurt, með fullvöxnum aldinum á. Hana langaði mjög í aldinin, en Jósef treysti sjer ekki sökum elli að klifra upp í trjeð. Móðirin og barnið stóðu undir trjenu, og er barnið vissi löngun hennar, ljet sveinninn trjeð beigja sig niður svo að María tók slíkt er hún vildi af aldinum þess. Þegar það var búið, reisti trjeð sig upp aptur og breiddi út greinar sínar. En Jósef og María mey lofuðu guð fyrir náð hans, er hann ljet barnið Jesús haga öllu þeim í vil, er þeim var til ánægju og hressingar, svo og fyrir hið mikla gras, er þau hittu, þar sem uxi Jósefs og asnar bitu nægju sína á stuttum tíma.

Asnar og ösnur fjellu á knje fyrir Jesú og hneigðu sig fyrir honum, og viðurkenndu þannig að hann var þeirra herra og skapari. Öll dýr Jósefs voru glöð og ánægð yfir nægtum þeim af grasi og vatni, sem allstaðar varð fyrir þeim í áfangastöðunum. — Þau hjeldu nú ferðinni áfram, en Jósef rataði ekki; því hann var ókunnugur. Guð sýndi þeim þá náð sína margfaldlega; hann ljet öll dýr merkurinnar koma

til barnsins og sýna, að þau viðurkenndu sveininn Jesúm sem skapara sinn. Trje, jurtir og blóm auðmýktu sig þar sem Jesús fór um. Þau komu á leiðinni að háu fjalli með ákaflega miklum helli í. Út úr hellinum kom feikna stór dreki; andi hans stóð út af vitum hans, eins og logastrókur; hann gekk í veginn fyrir Maríu mey og Jósef, og þau urðu ákaflega hrædd. Jesús sat á knjám móður sinnar, og er drekinn sá barnið, lagðist hann endilangur utan við veginn og auðmýkti sig. Þau sáu þá að öll dýr, eins drekar og önnur, voru sveininum Jesú undirgefin, og hlýðin. Þau lofuðu þá guð, og riðu svo áfram til Egyptalands með hið blíða og góða barn Jesúm. Í skógunum komu ljónin fram og sýndu barninu virðingu og hneigðu höfuð sín fyrir því; tígrar, birnir, úlfar og öll dýr merkurinnar, ung og gömul, hlupu í vegin fyrir Maríu mey, ljetu vinalega að henni, ljeku sjer og hlupu af gleði, sýndu henni virðingu og auðmýkt og vísuðu þeim Jósef leiðina eins og þau væru menn. Fuglarnir komu, settust niður, lofuðu barnið Jesúm, skemmtu honum með kvaki sínu og söng og fögnuðu skapara sínum með gleði, og sýndu Maríu mey og Jósef mikla

virðingu. Þannig hjeldu þau Jósef áfram leiðar sinnar yfir eyðimerkur, skóga og margar og stórar heiðar.

Loks komu þau að einum stórum skógi; þar voru stigamenn, sem voru vanir að ræna ferðamenn öllu, sem þeir höfðu meðferðis og drepa þá síðan. Þegar stigamennirnir sáu þau Maríu mey, hlupu þeir móti þeim, handtóku þau og sögðu, að hinn gamli Jósef mundi hafa strokið burt með hina ungu frú og barnið, og ætluðu því að drepa hann, en hafa Maríu og barnið á burt með sjer.

Einn af stigamönnunum var maður aldraður; hann átti bæ í skógnum, og hann átti að eignast allt það, sem þeir rændu þenna daginn. Hann varð mjög glaður við þenna feng, og fór með þau heim til sín, en Jósef og María voru mjög hrigg í huga. Stigamaður þessi átti konu, sem hann elskaði eins og sitt eigið líf. Þegar stigamannskonan sá Maríu og barnið, fjekk hún þegar ást á þeim; hún tók vel við þeim, fylgdi þeim inn í hús sitt, gaf þeim mat og drykk og allt sem þau þurftu við. Hún bjó til laug, til að lauga barnið í. Síðan bjó hún upp góða sæng með hreinum voðum í, og bað Maríu leggja

sveininn þar í. Stigamannskonan átti einnig barn, sem hafði kláða og kaun um allan líkamanum og var svart af veikindum. Hún tók það og laugaði í sama vatni og barnið Jesús var laugað í, og varð það þá þegar heilt og albata, af öllum sínum meinum. Þá kom þar og að stigamaður einn, sem hafði sár mikið; hann þvoði sárið upp úr vatninu og var það þá jafnskjótt gróið. Hinn gamli stigamaður tók þá vatnið og geymdi það og hafði til lækninga; því eigi var svo stórt sár, nje svo gamalt mein, að það batnaði ei þegar, er vatninu var strokið á það. Eigi var heldur neinn svo sjúkur, að honum batnaði ekki, ef hann fjekk að dreypa á vatni þessu. Stigamaðurinn græddi mjög fje á vatni þessu; því hann læknaði marga með því, og hætti þá alveg ránum.

Þegar þau María höfðu dvalið þrjá daga hjá stigamanninum, vildu þau halda áleiðis til Egyptalands. Stigamaðurinn og kona hans báðu þau að vera enn hjá sjer nokkra stund, en þau vildu það ekki. Þau fóru þá á stað, og bjó stigamannskonan þau vel út með vistir og vín og bað þau koma við hjá sjer, þegar þau færu um aptur; og kvaddi þau með hinum beztu vel-

förnunaróskum. En stigamaðurin fylgdi þeim langan veg og sagði þeim til leiðar til Egyptalands. Og er hann skildi við þau bað hann þau vel fara.

Jósef hjelt nú áfram með Maríu mey og barnið, og ætlaði til Egyptalands. En þau týndu veginum og villtust. Jósef varð þá hryggur og efablandinn, og sagði við Maríu mey: Hvað sýnist þjer, þessi vegur er óruddur og hefur ekki verið farinn nýlega? Viltu að við förum hann áfram? Skógarnir eru langir, heiðarnar breiðar og seinfarnar, en við höfum lítin mat. Ef þú vilt, getum við snúið við og leitað upp annan veg, þar sem við getum, ef til vill, fundið menn og fengið okkur fylgd, og keypt okkur mat fyrir peninga. Það er illt fyrir okkur að fara veg, sem við þekkjum ekki. Seg mjer því, hvaða veg þú vilt fara og hvað þú vilt ráða af. María mey þagði og svaraði engu, heldur setti hún sig niður á jörðina og grjet sárann. Hinn aldraði Jósef sá það og iðraðist nú eptir að hann skyldi hafa hryggt hana með orðum sínum. Hann bað hana að gráta ekki, nje láta hugfallast, og sagði: Jeg vil gjöra allt, sem jeg get fyrir þig og barnið. Gráttu

ekki, heldur seg mjer hvað þú vilt. Jeg vil gjarnan fara þann veg, sem þú ræður til. María mey svaraði: Jeg græt ekki af því, sem þú sagðir mjer; jeg læt ekki svo lítilvægt atriði olla mjer mikillar sorgar, heldur græt jeg af þeirri miklu umhyggju, sorg og vanda, sem jeg hef ollað þjer, síðan jeg varð heitmey þín, og af þeirri neyð, sem þú þolir vegna mín og míns barns í ókunnu landi; því vissulega hefur þú gjört eins mikið fyrir mig og barn mitt, eins og jeg hefði verið eiginkona þín. Jósef bað þá Maríu mey að gráta ekki og mælti: Jeg treysti því að drottinn láti okkur ekki verða fyrir neinu tjóni. Meðan þau töluðu þetta, svaf barnið í kjöltu móður sinnar. Tárin af augum Maríu meyjar runnu niður á barnið Jesúm; hann vaknaði þá og rjetti upp hönd sína til að þerra tárin af augum hennar, og hún huggaðist við það. Þá spurði Jósef Maríu, hvern veg hún vildi fara, og hún svaraði: Kæri Jósef! við skulum fara annan veg og yfirgefa þenna, sem er svo vandrataður og villugjarn.

Þegar þau töluðust þetta við, kom til þeirra engill guðs af himnum, huggaði þau og sagði: Jósef, þú heilagi maður, haltu áfram til Egypta-

lands. Jeg skal fylgja þjer og vísa þjer rjetta leið, sem þú átt að fara, og eptir 10 daga ferð hjeðan, skaltu verða kominn þangað.

Einn dag á leiðinni gjörði ákaflega mikið regn, en barnið hjelt hendi sinni mót regninu, og þá stytti þegar upp, og þau urðu ekkert vot. Þau hjeldu nú áfram og komu til Egyptalands. Þar komu þau að eik einni mjög hárri. Múgur og margmenni þusti að eikinni og tilbað hana, því þeir hjeldu hana vera guð. Þessari eik færðu innbúarnir fórnir af ýmsum dýrum, en musterisþjónarnir höfðu það sjer til viðurværis. Þegar María mey kom að eikinni með barnið, varð þar tákn eitt mikið. Eikin beigði sig niður og breiddi greinar sínar á jörðina, og viðurkenndi þannig að barnið Jesús væri sinn herra og skapari. Þau María settu sig þar niður og hvíldu sig. En djöflarnir, sem í eikinni bjuggu, kölluðu þá upp yfir sig og sögðu: Sonur guðs, hvaða erindi hefur þú í þetta land? Þú gjörir oss mikla smán og óvirðing, því vjer hljótum að flýja burt úr eik þessari; því vor herra er kominn.

Þau María mey og Jósef fóru inn í Egyptaland til bæjar þess, sem hjet Spenónes. Þau

komu þangað seint um kveld, og vissu ekki vegna ókunnugleika, hjá hverjum þau gætu fengið hús. En þar var bænhús, sem skurðgoð bæjarbúa voru í. Við bænhúsið var andyri, og þar fóru þau Jósef inn. Um miðja nótt heyrðist ákaflegur hávaði og óp um allan bæinn, og upp í loptinu heyrðist óttaleg rödd, sem kallaði: Vei oss, vor herra er kominn, til angurs og meins oss öllum djöflum. Hver hefur boðað hann hingað? Hrein mey hefur fætt hann, og þess vegna verðum vjer að flýja herbergi vor, og vor hreysi eru öll brotin í sundur og dottin niður. Vei þjer Jósef, þú aldraði maður, hví fluttir þú þetta barn hingað?

Við þenna óttalega hávaða og óp, sem djöflarnir gjörðu, urðu bæjarbúarnir mjög hræddir; þeir þustu saman frá götum og strætum og hjeldu að bærinn mundi fyrirfarast. Þeir voru mjög hræddir og sögðu: Vjer skulum fara inn í bænhúsið, og biðja skurðgoð vor, oss til hjálpar. Þegar þeir komu þar inn, sáu þeir að skurðgoðin voru öll dottin niður: Júppiter, Satúrnus, Mínerva og allir aðrir hjáguðir í Egyptalandi, voru dottnir niður, og lágu allavega á gólfinu. Af [redacted] voru brotnir handleggirnir, sumum

fæturnir, sumum höfuðið og hendurnar, og sumir voru margbrotnir í sundur. Þá sagði lýðurinn: Æ, allir vorir guðir eru dottnir niður, og þeir höfðu einmitt lofað oss hjálp á tíma neyðarinnar. Vjer óttumst að það fari eins fyrir oss, eins og hinum volduga konungi Faraó, þegar hann reið út í *hafið rauða* eptir Gyðingum, og hann drukknaði þar með öllum sínum mönnum æðri og lægri. Af þessu tákni, sem vjer nú sjáum á goðum vorum, ráðum vjer, að einhver bágindi eða drepsóttir muni bráðum koma yfir oss. Nokkrir af lýðnum sögðu: Hjer eru komnir ókunnugir guðir, sem hafa rofið vorn frið, og herja á vora guði; en vjer vitum ekki hvaðan þeir hafa komið.

Þegar hertoginn Kaprodótius, sem var höfðingi yfir bænum, heyrði hið mikla óp og aumkunarlega ys í lýðnum, spurði hann að, hvað á gengi. Bæjarmenn sögðu honum hvað þeir hefðu heyrt og sjeð. Hann varð þá mjög hriggur, gekk til bænhússins, og varð mjök óttasleginn þegar hann sá, hversu goð hans voru illa útleikin, brotin og brömluð, og út um allt gólf. Hann mælti þá með hárri röddu: Hjer er orðið mikið undur; hvernig ætli nú fari fyrir oss hjer

eptir? Hvar ætli' sá hinn máttugi guð sje, sem hefur haft orku til að reka vora guði burt, og brjóta líkneskjur þeirra sundur? Ef jeg vissi hvar hann væri, þá vildi jeg dýrka hann; því vorir guðir geta ekki varið sjálfa sig sökum vanmættis þeirra. Vjer skulum þess vegna setja vort traust á hinn sanna guð.

Hertoginn Kaprodótíus gekk síðan út úr bænhúsinu og spurði, hvort nokkur vissi hvar hinn voldugi guð væri. Þá sá hann Maríu mey, þar sem hún sat á steini nokkrum, og hafði son sinn á knjám sjer, og Jósef, sem stóð þar hjá þeim. Hann vildi sjá þessa aðkomumenn, því guð skaut honum í brjóst, að spyrja hvaðan þau væri komin og hvert þau ætluðu að fara með hið unga barn. Jósef svaraði, að þau væru þangað komin frá Gyðingalandi. Hertoginn skildi þá, að táknið á goðunum mundi hafa orðið sökum hins unga barns.

Hertoginn snjeri þá inn aptur í bænhúsið, kallaði lýðinn saman og sagði: Ef þjer viljið sjá hvers vegna vorir guðir eru niður dottnir, þá farið út og skoðið hið fagra barn, sem hingað er komið, og hina dægilegu frú, sem með það er. Þetta er það barn sem spámaðurinn Nahúm

hefur ritað það um, í bókum sínum, að af Gyðinga-ætt skuli stjarna renna upp og skína yfir allan heiminn. Á því sem hjer er orðið, sje jeg og að þetta er barnið, sem spámaðurinn Jeremías hefur ritað það um, að það muni verða rekið burt af Gyðingalandi og koma hingað til vor. Og hjá spámanninum Jesaías er það ritað: að guð skuli verða maður, og fæðast af hreinni meyju í heim þenna, og hann muni í æsku sinni koma hingað til vor í vort land og ríki, og eyðileggja vora guði, því þeir standist ekki fyrir honum.

Og jeg segi yður satt, að fyrir einu ári fóru þrír konungar um þetta land; þeir voru langt að og ókunnugir og ferðuðust til Betlehem til þess að skoða hinn nýfædda svein, sem var máttugur á himni og jörðu, og þeir höfðu með sjer alls konar kostulegar fórnir. Ný stjarna fylgdi þeim; hún var mikil og björt, og sólargeislinn hvarf í ljóma hennar. Þessi stjarna fylgdi þeim til landsins, þar sem sonur guðs, skapari himins og jarðar, var fæddur. Þessa stjörnu sáum vjer berlega, og öll þessi tákn ern orðin vegna þessa barns, og jeg sje fullkomlega að móðir barnsins er hrein mey. Vjer vitum og enn

fremur, að í gærkveldi þegar þau komu hingað með barnið, þá hröpuðu öll vor goð niður af stöllunum.

Hertoginn mælti við Jósef: Seg mjer nú satt frá öllu um þetta barn, góður maður! Hvernig stendur á með það og hina ungu frú? Jósef spurði Maríu hvort hann ætti að segja rjett frá um hana og barnið fyrir öllum lýðnum. María sagði honum að hann skyldi segja frá allt hið sanna um barnið og engu leyna.

Þá svaraði Jósef hertoganum og sagði: Það er allt satt, herra, sem þjer sögðuð. Þessi frú er óflekkuð mey; engill guðs af himnum boðaði henni, að heilagur andi skyldi koma yfir hana og hún skyldi fæða son guðs, sem hún ætti að nefna Jesúm. Hertoginn svaraði: Nú megið þjer heyra að orð mín eru sönn; hann er kominn híngað til vors lands, eins og spámennirnir hafa ritað. Jósef sagði: Heyrið mjer, herra! Hún hefur aldrei karlmanns kennt, og án syndar hefur hún getið þetta barn. Hún ól það án minnstu verkja, þjáningar eða angurs, og þegar hún ól það, voru margir englar hjá henni, henni til þjónustu, virðingar og ánægju. Þeir sungu barninu lof, og yfir húsinu kvikn-

aði stjarna, sem sendi geisla sína langt út til fjarlægra landa. Hún lýsti hinum 3 heilögu konungum, sem með athygli sinni undruðust birtu hennar og lögun, og trúðu því fastlega, að drottinn vor, stjórnari himins og jarðar, væri fæddur, og þeir fóru eptir tilvísun stjörnunnar til Betlehem. Þegar þeir fundu barnið, tilbáðu þeir það, og færðu því ríkuglegar gjafir og fórnir, sem þeir höfðu haft með sjer.

Þegar Heródes, konungur landsins, heyrði að í sínu ríki væri fæddur svo voldugur konungur, þá fjekk hann á honum hatur og öfund, og sendi menn sína út, til þess að myrða barnið. Þá kom engill guðs, og bað mig taka móðurina og barnið og fara hingað með þau. Og guð hefur geymt vor þenna langa veg, svo að enginn hlutur hefur grandað oss, og það er þannig forsjón guðs, sem hefur leitt oss hingað.

Þegar hinn góði maður Jósef hafði þetta mælt öllum lýðnum áheyrandi, þá gengu bæjarbúar allir til Maríu meyjar, fjellu á knje og tilbáðu barnið. Þeir tóku við þeim tveim höndum og kysstu Jósef fyrir ómaka sinn, og spurðu hann, hvers þau María þyrftu við. Þeir fengu

þeim hús eitt til íbúðar, og þar voru þau kyr í 7 ár.

Jósef tók nú til trjesmíðis síns, en María mey fór að vefa purpuravef, silkivoðir og fleiri kostulega vefi. Hinar góðu konur i bænum flykktust til hennar, til þess að skoða hið fagra barn Jesúm, og buðu Maríu mey þjónustu sína. Þær gjörðu henni allan sóma og styrktu hana með gjöfum. María mey hafði nóg fyrir sig af vinnu sinni, og svo var hún siðprúð og skírlíf, að hún fjekk allra lof fyrir; hún var kölluð hin góða kvinnan, og var höfð í hávegum, eins og drottning. Lýðurinn tilbað barn hennar og sagði, að það væri komið til Egyptalands til ánægju, gleði og frelsis. Þegar einhver sá annan hryggan, á meðan þau María dvöldu hjer, þá var það æfinlega viðkvæðið: Kom þú með mjer til Maríu meyjar og skoðaðu barnið hennar, þá mun hryggð þín hverfa, og þú undir eins huggast.

María bjó nú syni sínum til kyrtil með grænu útprjóni, kyrtillinn fór mæta vel; hann var mátulega síður og víður, svo það var ei auðið neinum manni, að búa til fat, sem betur færi. Hann varð aldrei óhreinn; hann slitnaði aldrei. Hann var allt af eins og nýr, og þó gekk Jes-

ús einatt í honum, þangað til á föstudaginn langa, þegar hann leið dauðann á krossinum. Og þá var kyrtillinn eins fagur, eins og daginn sem María mey færði son sinn fyrst í hann.

Þegar sonur guðs var svo gamall að hann átti að fara að ganga og tala, eins og önnur börn, þá ljet hann aldrei leiða sig, og ekki gekk hann heldur með, eins og önnur börn gjöra. Hann reisti sig sjálfur upp, og gekk öruggum fetum, og datt aldrei. Og þegar hann byrjaði að tala, þá talaði hann undir eins rjett og greinilega, en hvorki tæpti á orðunum, nje bútaði þau í sundur eða bjagaði þau, eins og önnur börn gjöra, þegar þau byrja að tala.

María mey bað son sinn að ganga út með öðrum börnum og leika sjer við þau, svo lýðurinn gæti sjeð hann. Hann fór þá, hið góða barnið, Jesús, því hann var jafnan svo hlýðinn móður sinni. Þegar hann kom til barnanna glöddust þau mjög af leik hans, því enginn hafði fyrri heyrt nje sjeð þá leiki, sem hann ljek, og allir voru þeir saklausir. Hann gleymdi ekki siðprýði sinni, þó hann væri með öðrum börnum. Þau lærðu af honum siðgæði og sögðu, að hann væri ungur guð. Og þau sýndu hon-

um alla þá virðingu og elsku, sem þau gátu. Börnin völdu hann öll saman fyrir konung yfir sig; þau tóku barnskyrtil einn, breiddu hann á trje og settu Jesúm þar á. Þau gengu til hans, buðu honum þjónustu sína, og höfðu hann fyrir guð sinn.

Einn dag, þegar Jesús var úti með börnunum, sem voru að leika sjer, datt eitt þeirra á stein og fótbrotnaði. Barnið grjet mjög og bar sig illa. Jesús sá það, gekk til barnsins, tók í hönd þess, bað það að standa upp hraust og heilbrigt, og mælti: Kom þú með til hinna barnanna; við skulum leika okkur við þau. Barnið stóð þá upp og kenndi sjer einkis meins. Lýðurinn, sem á þetta horfði, sagði, að Jesús væri sonur guðs, og herra yfir öllum hlutum.

Þegar þau Jósef voru búin að vera 7 ár í Egyptalandi, kom engill guðs af himnum til hans og mælti: Jósef, sonur Davíðs, jeg segi þjer, að Heródes, óvinur barnsins, er dauður. Tak nú móðurina og barnið og far heim aptur með þau til yðvars lands; því sá er vilji guðs. Jósef bjóst þá til burtfarar eptir boði engilsins. En er bæjarmenn vissu að þau ætluðu að fara heim, urðu þeir hriggir, því þeir vildu hafa þau

hjá sjer. Þeir sögðu, að þessi 7 ár hefðu þeir haft góða atvinnu og engin óveður, svo að vínviður þeirra og kvikfje hefði ekkert tjón liðið. Þá mælti Jósef: Tilbiðjið nú ekki framar hjáguði yðar, heldur þann eina sanna guð, sem ræður á himni og jörðu og hefur gefið yður líf og sál. Síðan rjetti hann út hönd sína, bauð þeim góðar nætur og fól þá guði á himnum. Konurnar í bænum gengu til Maríu meyjar og barnsins og bárust lítt af. Þær bjuggu þau út með nesti til ferðarinnar, föðmuðu Maríu mey, báðu þau vel fara og óskuðu að guð vildi fylgja þeim og geyma þeirra á hinni löngu og torveldu leið.

Jósef, María mey og sveinninn Jesús, hjeldu síðan á stað frá Egyptalandi til Jórsala. Á leiðinni mættu þeim margar tálmanir og örðugleikar; þau urðu að fara yfir margar stórar heiðar, margar víðlendar eyðimerkur og skóga, og voru opt nærri því uppgefin af lúa og mæði. Einn dag komu þau að móðu nokkurri. Þá sagði María við Jósef: Hvar komumst við yfir vatnsfall þetta? Jósef svaraði: Við verðum að reyna hvort hjer er ekki vætt yfir; jeg skal bera barnið svo því grandi ekkert. María mey

tók þá upp klæði sín og ætlaði að stíga út í móðuna, en í því bili tekur Jesús í hönd henni og segir: Móðir mín góð, kom þú á eptir mjer. Síðan gekk hann á undan þeim yfir móðuna, en þau fóru á eptir honum, og komust þurrum fótum.

Þegar þau komu til landsins Galíleu, fóru þau til borgarinnar Nazaret, þar sem Anna, móðir Maríu meyjar, átti heima. Hún var enn á lífi, en Jóakim, faðir Maríu meyjar, var þá andaður. Anna var nú gipt öðrum manni, sem hjet Kleófas, og var bróðir Jósefs, unnusta Maríu meyjar. Anna varð mjög glöð við apturkomu þeirra Maríu; hún fagnaði þeim mikillega og lofaði guð og þakkaði honum, fyrir geymslu hans á þeim á ferðinni.

Í borginni var svæði nokkurt, sem Jóakim hafði átt, og María var nú orðin erfingi að. Á þessu svæði byggði Jósef sjer hús, og þar dvaldi hann hjá Maríu mey og barninu. En þau notuðu tímann guðrækilega og voru saman í fögnuði og gleði, þangað til Jesús fór frá þeim og hóf að kenna. Á æskuárum sínum tamdi Jesús sjer dyggð og guðsótta; hann neytti matar og drykkjar, ljek og skemmti sjer, og var hinn siðprúð-

asti unglingur, til þess að allir mættu sjá, að hann væri sannur maður; því hefði hann ekki verið eins og önnur börn, þá hefðu stórmerki þau, sem menn sáu hann gjöra, ekki hrifið eins á hugi manna, eins og þau gjörðu, af því þeir sáu að hann var maður. Og það er heimska ein, sem sumir segja, að drottinn vor Jesús Kristur hafi ekki leikið sjer nje hlegið, í ungdæmi sínu, og eigi haft barnaæði; því án þess gat hann ekki sýnt, að hann væri guð og maður. Opt leið hann hungur og þorsta, opt var hann votur og hrakinn: veður, regn, snjór og hagl höfðu sömu áhrif á hann og aðra menn. Þetta gjörði hann allt til þess, að djöfullinn skyldi einnig sjá, að hann væri sannur maður. Þegar Jesús kom til annara barna, glöddust þau við er hann ljek sjer með þeim, því öll börn vildu vera hjá honum. Þau gjörðu hann ætíð að konungi sínum, ljeku og hlupu fyrir hann; þau eltu hann, og leituðu hann uppi þegar hann kom ekki.

Í Nazaret var maður einn auðugur, sem hjet Jósef. Hann var góður vinur þeirra Maríu meyjar og gjörði þeim allt til vilja, og styrkti þau, eins og vini ber að gjöra við vin.

Einn dag kom Jesús að móður sinni og Jósef, þar sem þau voru að gráta. Jesús spurði þau, hvað að þeim gengi. Jósef svaraði: Herra minn, við grátum lát eins af vorum beztu vinum, sem opt hefur gjört mjer og unnustu minni mikið gott, og sem einnig sagðist hafa mikla ást á þjer. Jesús spurði þau, hvort þau langaði til, að hann lifnaði aptur. Jósef svaraði: Það hefur sjaldan borið við, að sá, sem dáinn er, fái líf sitt aptur, en ef þú getur gjört það, þá snýr þú sorg okkar í gleði. Jesús sagði: Hlustið á hvað jeg segi; farið þangað sem hinn dauði liggur og hvíslið þessum orðum í eyru honum: Jeg bið þig í nafni hans, sem hefur vald lífs og dauða, sem hefur gefið oss líf og sál, hans, sem ræður öllum heiminum, í hans nafni bið jeg þig að rísa á fætur og ganga með mjer, því þess bað hið góða barnið Jesús mig. Jósef brá við undir eins, fór þangað sem hinn dauði lá og mælti þeim orðum við hann, sem Jesús hafði lagt fyrir hann. En hinn dauði reis þegar upp og var heill og hress og kenndi sjer einkis meins. En Jesús bað þau Jósef að leyna þessu og tala ekki um það við neinn mann.

Einn dag fóru börnin út á völl nokkurn

þar sem lím og leir var í jörð. Jesús var með þeim. Hann setti sig þá niður, tók leirjörðina upp í lófa sinn og hnoðaði úr henni fugla, eins og þá er í loptinu fljúga. Þegar hin börnin sáu leirfuglana, sem Jesús bjó til, hlóu þau að þeim, og fóru einnig að hnoða sjer leirfugla; þá kom þar að þeim gamall Gyðingur; hann sá þenna leik barnanna, ávítaði þau og mælti: Þið haldið ekki sabbatsdaginn heilagan; þið eruð börn djöfulsins, því þið hirðið ekki um helga daga, og reitið guð þannig til reiði. Þetta gjörir þú, Jesús; hin börnin taka það eptir þjer, og þið eruð öll á vegi glötunarinnar. Jesús svaraði: Guð veit hvort þú heldur sabbatsdaginn eins heilagan og jeg; þú skalt ekki ráða yfir mjer. Hinn gamli Gyðingur reiddist þessu og ætlaði undir eins að hefna sín með því, að stíga ofan á leirfuglana hans og brjóta þá í sundur. Jesús sá það og sló saman lófunum, eins og hann vildi fæla fuglana upp, og í sama bili urðu allir leirfuglarnir lifandi, og flugu upp í loptið, svo að Gyðingurinn hafði ekki meira af þeim.

Einu sinni kom meistari nokkur að máli við Jósef og sagði: Jósef, láttu Jesúm ganga

í skóla og læra að lesa og skrifa; því jeg hef heyrt, að hann gjöri ætíð gott, og þess vegna þarf að fræða hann í trúarbrögðunum, svo hann viti hvað heyrir til vegsemdar guðs. En gangi hann ekki í skóla, má ekki vita, hvaða stefnu hann tekur. Jósef svaraði: Jeg vil tala við móður hans um þetta, og það er bezt að hún tali við skólakennarann og semji sjálf við hann; því Jesús elskar hana innilega, óttast guð og hlýðir henni. Jósef talaði síðan við Maríu mey, en hún bað Jesúm ganga með sjer í skóla og vita hvað skólakennarinn gæti kennt honum. Jesús var undir eins fús á það, og fylgdi móður sinni til skólakennarans; hún bað kennarann að kenna Jesú að lesa og skrifa, og fara að honum með lempni, en slá hann ekki í bræði, því þess mundi ekki við þurfa. Jesús gekk þá í skólann, og kennarinn fjekk honum bók og fór að fræða hann. En Jesús vissi það allt betur en kennarinn. Kennarinn sýndi honum þá hinn fyrsta staf í stafrofinu, sem er *A* (*alpha*), og spurði hvort hann þekkti hann. Jesús svaraði: Má jeg spyrja, yður hvaða bókstafur þetta er, og hvað hann táknar? Kennarinn sat lengi þegjandi og gat ekki svarað, heldur reiddist.

Þá sagði Jesús: Þessi bókstafur táknar mikið gott; því hann táknar þann, sem verið hefur frá eilífð, sem er guð í himninum, og sem jeg er einnig að nokkru leyti. Kennarinn mælti: Hvað ert þú? Seg mjer hvort þú ert sonur guðs á himnum, eða púki, því þú gjörir gis að mjer? Eða ert þú engill af himnum? Því vildi jeg helzt trúa, því þú ert betur að þjer en jeg. Jeg get ekkert kennt þjer, og þú þarft ekki minnar fræðslu við; farðu burtu úr mínum skóla. Þú ert að vísu ungur, en þú veizt þó meira en jeg, og því vildi jeg feginn vita hver þú ert. Eptir þetta fór Jesús heim til móður sinnar, og er hún vissi hvernig farið hafði, gladdist hún af því í huga sínum. En seinna reyndi hún mikið angur og hriggð, því Gyðingar lögðu hatur á hana; sökum hennar blessaða sonar hreinu kenninga og guðsótta.

Þegar Elisabet, kona Sakkarías spámanns, frjetti að frændkona sín, María mey, væri komin heim aptur frá Egyptalandi, varð hún mjög glöð og bjóst til að heimsækja hana í Nazaret. Hún tók son sinn, hinn heilaga Jóhannes, með sjer, til þess hann gæti með eigin augum sjeð þann, er hann hafði þekkt löngu áður en hann

fæddist. Þegar Elisabet sá Maríu mey, sagði hún: Vertu velkomin, hreina mey, með þinn kæra son Jesúm! Lofaður veri guð, [redacted] hef-[redacted] leitt ykkur heil heim aptur og unnusta þinn elskulegan, hinn góða Jósef. Þegar María sá frændkonu sína Elisabet, fór hún í móti henni, kyssti hana og mælti: Vertu velkomin, móðursystir! Lof sje guði fyrir það, að við höfum aptur fundizt. Þær urðu nú báðar svo glaðar, að þær gleymdu öllu umliðnu andstreymi sínu. Sveinarnir gengu saman: Jesús, sonur Maríu meyjar og hinn heilagi Jóhannes, sonur Elisabetar. Þeir ljetu blítt hvor að öðrum, ljeku sjer [redacted] og elskuðust innilega. Elisabet dvaldi 3 daga hjá Maríu mey. Fjórða daginn fór hún burt aptur með son sinn, hinn heilaga Jóhannes, og bað Maríu að koma með sjer og vera hjá sjer tvo eða þrjá mánuði. Hinn heilagi Jóhannes bað hana að hafa Jesúm með sjer, til þess að þeir gætu verið saman. Þau fóru þá öll saman, og María og Jesús dvöldu nokkurn tíma hjá Elisabet. Þegar þau María mey og Jesús fóru heim aptur frá Elisabet, gekk hinn heilagi Jóhannes út [redacted] eyðimörk og var þar einsamall [redacted] hríð.

Jósef fjekk sveini sínum trje og mæli til að höggva eptir, en sveinninn gleymdi mælinum og hjó of mikið af trjenu. Þegar hann fann mælinn aptur, og lagði hann á trjeð, sá hann að það var of stutt. Hann varð þá hriggur, því hann óttaðist reiði húsbónda síns, af því hann hefði skemmt trjeð. Jesús kom þar að, og spurði hvað að honum gengi, er hann væri svo hryggur. Sveinninn mælti: Góði Jesús, jeg átti að höggva trje þetta eptir mæli, en gleymdi mælinum og hjó trjeð of mikið, svo það er of stutt. Jesús mælti: Jeg skal hjálpa þjer, til þess að gjöra trjeð nógu langt. Haltu fast í annan enda þess, jeg skal halda í hinn, svo skulum við teigja það, þangað til það verður nógu langt. Sveinninn mælti: Það hefur aldrei tekizt, að teigja trje; það er ekki unnt. Jesús bað hann að hlýða sjer. Sveinninn hló að þessu, en gjörði þó eins og Jesús bauð, og þeir teigðu trjeð, þangað til það var orðið fulllangt. Sveinninn þakkaði þá Jesú fyrir. En á meðan þeir teigðu trjeð, kom María þar að, sá til þeirra og mælti: Hvað hefst þú nú að, sonur kær? Jesús svaraði: Trjeð var of stutt; jeg [illegible] að teigja það.

Þá hló María mey, og gladdist af því að sjá guðdómsmátt sonar síns.

Einn dag fór hið heilaga barn Jesús með öðrum börnum út á völl nokkurn, til að leika sjer. Þar stóð steinn einn mikill. Börnin fóru að leika sjer hjá steininum; sum hlupu, sum stukku, en Jesús sat og horfði á.

En svo vildi til, að eitt barn, sem var uppi á steininum, datt niður af honum á höfuðið og dó. Börnin urðu hrædd, hlupu inn í bæinn og sögðu, að barnið hefði dottið dautt ofan af steininum. Foreldrar barnsins urðu mjög hrigg, hlupu þangað sem barnið var, kenndu Jesú um þetta og sögðu: Sonur Maríu meyjar hefur ollað okkur mikillar sorgar; þvi barnið okkar er dautt, og það er honum að kenna. Þegar María mey og Jósef heyrðu, að Jesús var kærður fyrir þetta, segir María við Jesúm, því hún vissi, að hann var saklaus: Sonur góður, hvað eigum við nú að gjöra? Jesús sagði: Til þess að allir viti, að jeg er saklaus, skuluð þið taka með ykkur foreldra barnsins og fylgið mjer þangað sem barnið er, þá skal það sjálft segja frá, hvernig allt gekk til við lát þess, og hvort jeg var sök í því.

Jósef og María kölluðu saman vini barnsins, og gengu þangað sem það lá andvana. Jesús bað barnið að segja lýðnum hátt og skýrt frá öllum sannleikanum, og sagði: Seg oss, hvar dattst þú? Hef jeg slegið þig, eða gjört þjer nokkurt mein? Hið dauða barn svaraði með snjallri röddu svo allir heyrðu, þeir sem við voru: Góði Jesús, sonur Maríu, þú gjörðir mjer aldrei nokkurt mein; þú ert saklaus af biltu þeirri, sem jeg fjekk. Jeg var sjálfur orsök til hennar, og það er mjer mjög á móti, að þjer sje kennt um dauða minn. Blessa þú mig. Jesús mælti: Fyrst þú hefur afsakað mig, þá gef jeg þjer nú aptur líf þitt og heilbrigði. Stattu upp og vertu eins heill heilsu og þú varst áður. Um leið og Jesús sagði þetta, reis barnið á fætur og lofaði Jesúm, með munni og tungu, af hjarta.

Skammt frá Nazaret var brunnur einn. Jesús gekk þangað og settist niður. Rjett á eptir kom þar að barn, með stóra eirkrús í hendinni. Það kom úr bænum og ætlaði að sækja vatn, en í því að barnið ætlaði að sökkva krúsinni í, datt hún og brotnaði. Barnið fór þá að gráta, því það óttaðist reiði móður sinnar. Jesús gekk þá til barnsins, huggaði það og mælti: Gráttu

ekki, jeg skal hjálpa þjer. Fáðu mjer brotin, jeg skal setja krúsina saman. Barnið tíndi upp brotin, og fjekk Jesú þau, en hann lagði þau saman og krúsin varð heil eins og áður. Barnið tók þá vatn í krúsina og fór heim með það til móður sinnar.

Eptir þetta komu nokkur börn að brunninum með krúsir, sem þau sóktu vatn í, en Jesús sat þar og hafði enga krús. Hann tók þá kyrtilskaut sitt og ljet vatn í það, og bar vatnið þannig, eins og í krús. En börnin undruðust það mikillega; því þau sáu, að það var kraptaverk.

Einu sinni ætlaði Jósef að sá korni í akur sinn; hann gekk út með svein sinn, og Jesús fór með þeim. Þegar þeir komu á akurinn og ætluðu að taka kornið úr sekknum, kom Jesús þar að, og tók þrjá hnefa sína, sem hann ljet í kyrtilskaut sitt. Síðan lagði hann það á akurinn, en kornið rann út um hann allan, spratt vel og gaf svo ríkuglega uppskeru, að allir undruðust yfir því.

Hjá Nazaret var stöðuvatn, sem hjet *Mare Galilææ*. Börnin fóru þangað til að leika sjer og höfðu Jesúm með sjer. Þegar þau komu

að vatninu, sáu þau fiska í því. Þau sögðu þá: Við skulum grafa holur í kring um vatnið og láta það hlaupa í þær og veiða svo fiskana í holunum. Jesús varð fljótastur með að grafa sína holu. Hin börnin luku og hvert við sína holu. Fiskarnir komu þá undir eins í holurnar, sem börnin höfðu grafið. Þenna dag var sabbatsdagur Gyðinga. Þá kom þar að gamall Gyðingur nokkur; hann varð mjög reiður þess-[illegible] leik barnanna og mælti: Þið gjörið illa í því, að halda ekki sabbatsdaginn heilagan, heldur brjóta hann, og guð lætur það ekki óhegnt, heldur [illegible] reiði hans koma yfir ykkur. Og það ert þú, Jesús, sem kemur börnum vorum til þess, að brjóta lög Mósis og reita guð til reiði. Jesús svaraði: Aldrei geta þessi börn hneikslast á mjer; þau [illegible] verða rík og sæl á jörðunni. En jeg ræð þjer til, að óttast guð og halda sabbatsdaginn, eins og lög Mósis bjóða. Gyðingurinn reiddist og ætlaði að hefna sín á Jesú. Hann rótaði þá um holum barnanna og skemmdi þær, svo að vatnið hljóp úr þeim. En í sama bili fjell Gyðingurinn dauður niður, og það spurðist þegar í Nazaret. Lýðurinn kærði Jesúm fyrir dauða Gyðingsins og sagði: Son-

ur Jósefs gjörir oss mikið illt. Ef hann dvelur hjer lengur, þá kemur hann börnum vorum í mikil vandræði með fjölkyngi sinni, sem hann hefur numið í Egyptalandi. Hann vill oss illt, og dregur alla óhæfu yfir oss, eins og vjer sjáum nú; þess vegna skulum vjer veitast að honum og drepa hann. Hann er ekki eins og önnur börn; því djöfullinn hlýðir honum. — Þegar Jósef og María heyrðu þetta, urðu þau hrædd um, að Gyðingar mundu vinna á Jesú, og Jósef sagði við Maríu: Gef þú nú ráð nokkurt; því Gyðingar ætla að hefna Gyðingsins, sem dó, á syni þínum. María sagði: Við skulum undir eins fara, að leita Jesúm upp meðal barnanna; því ef Gyðingar finna hann, er jeg hrædd um, að þeir gjöri honum eitthvað illt. Þau fóru þá og fundu Jesúm þar á vellinum, sem Gyðingurinn dó. Þegar María sá hann mælti hún: Sonur góður, hvað gjörði hann þjer maðurinn, sem þarna liggur dauður? Jesús svaraði: Hann gjörði mjer mjög á móti; því hann atyrti mig og ætlaði að fóttroða mig. Hann fældi burtu fiskana mína, sem jeg ætlaði að færa ykkur heim. María mey sagði: Kæri sonur, þú hefur hefnt þín um of á manni þess-

um, og þess vegna bið jeg þig, að gefa honum líf sitt aptur fyrir mig. Jesús svaraði: Elskulega móðir, jeg vil feginn gjöra það, sem þú biður mig um. Síðan gengu þau til hins dauða Gyðings, og margir Gyðingar fylgdu þeim. Jesús snart hann með fæti sínum og mælti: Stattu upp og lifðu, og fell aldrei framar sleggjudóma yfir oss, saklausum börnum. Og er Jesús sleppti þessu orði, stóð hinn dauði þegar á fætur, heill og hress, og mælti: Þetta blessaða barn er komið til vor frá himnum.

Hjá borginni Nazaret var skógur einn mikill; þar var mikill fjöldi af villudýrum og ljónum. Jesús gekk frá Nazaret út í þenna skóg. Ljónin í skógnum gengu þá til hans og vottuðu honum virðingu sína, eins og þau hefðu mannsvit. Þau fjellu á knje fyrir drottni sínum og skapara, og lutu honum. Jesús setti sig niður, og ljónin lögðust flöt við fætur hans. Þegar hann snjeri burt þaðan, fylgdu ljónin honum og ljeku fyrir honum. Þegar lýðurinn sá þetta sagði hann: Þetta er enginn barnaleikur, enda er Jesús ekkert barn; því ljónin hlýða honum. Annaðhvort er hann hinn æðsti djöfull frá helvíti, eða hann er guð, sem hefur

vald yfir öllum dýrum. En það lítur svo út, eins og hann gjöri þetta allt með fjölkyngi, sem hann hefur numið á Egyptalandi, þegar hann var þar; því þar hefur hann líklega hitt á ritaðar galdrabækur. Sumir sögðu: Hvernig getur nokkurt barn verið svo snemma búið að [redacted] töfralist eða galdur? Sumir sögðu: Hann hefur gjört margt ótrúlegt og undarlegt, hann hefur með orði sínu frelsað marga menn frá sjúkleika, óhamingju, slysum og jafnvel frá dauðanum; hann hlýtur að vera sonur guðs. Enn fremur sögðu þeir: Hvernig getur þessu verið varið með hann? Vjer þekkjum Jósef föður hans dável; hann er trjesmiður góður, og fæst ekkert við hinn viðurstyggilega galdur. Þegar Jesús gekk á burtu frá ljónunum, fjellu þau á knje, en Jesús bað þau fara aptur á sinn stað út í eyðimörkina, og ljónin hlýddu honum. Jesús gekk síðan inn í bæinn, en þeir sem þar stóðu á leið hans, sögðu: Segðu oss, Jesús, hvernig á því stendur, að þú getur umgengist hin grimmu ljón. Þú ert svo lítill og ungur, að slík dirfska gæti orðið þjer dýr, og jafnvel ollað þjer bana. Jesús svaraði: Hin villtu dýr eru vitrari [redacted] þjer, og þess vegna sýna þau

mjer virðingu. Gyðingar spurðu hann: Hver ert þú, [redacted] þorir að mæla slík orð við oss? Jósef er þó faðir þinn, og það væri rjett af þjer, að lifa eins og hann lifir. Jesús gekk þá heim til móður sinnar.

Þegar Jesús kom heim spurði móðir hans að, hvar hann hefði verið, og sagði: Hvar hefur þú verið, sonur kær, og hvað sagði lýðurinn við þig? Jesús svaraði: Lýðurinn særir mig, og færir allt út á vesta veg, sem jeg gjöri honum til góðs. Hinir illu Gyðingar eru svo blindaðir gegn mjer og harðúðugir, að þeir vilja nú þegar drepa mig. En það verður þó ekki af því í þetta sinn; því þess vegna hefur minn himneski faðir sent mig til jarðríkis og frá eilífð ályktað, að jeg skyldi fæðast með holdi og blóði, eins og aðrir menn, — eins og nú er orðið fyrir krapt heilags anda, að María mey hefur fætt mig í þenna heim, — að jeg á að frelsa hið fallna og syndumspillta mannkyn, til þess að binda enda á loforði því, sem Adam og Evu var gefið, þegar þau voru rekin út úr Paradís vegna synda sinna, en fengu það fyrirheit, að afkvæmi kvinnunnar skyldi mola höfuð höggormsins sundur. Þess vegna er jeg nú kominn í heim-

inn til þess, að endurleysa alla menn, og það stoðar þá ekki, þó þeir ofsæki mig með lognum ákærum; því þeir megna ekki að skerða eitt hár á höfði mínu, fyr en tíminn er kominn, og jeg sel mig sjálfviljuglega í kvalir, svívirðing og dauða, til þess að afplána syndir alls heimsins. María mey sagði: Kæri son, þeir kvarta yfir þjer hvervetna í borginni, og segja að öll börn sín vilji svo fúslega leika sjer með þjer og fylgja þjer. Meðal annara barna, sem hjá Jesú voru, var og hinn heilagi Jóhannes, sonur Elisabetar; þau sáu öll þau tákn sem hann gjörði, og flest þeirra urðu lærisveinar hans.

Þegar Jesús var 12 ára gamall, var mikil hátíð haldin í Jórsölum. þá sagði hinn góði maður, þjónn guðs, Jósef, við unnustu sína Maríu mey: Lízt þjer ekki, að við förum til Jórsala og tökum son þinn með okkur? María kallaði Jesúm fyrir sig, og spurði hvort hann vildi fara með þeim til musterisins í Jórsölum. Jesús játti því fúslega. Jósef og María fóru þá með Jesúm til musterisins í Jórsölum og færðu guði fórnir þær, sem ákveðnar eru í lögmáli Mósis. Þegar hátíðinni var lokið, snjeru þau María og Jósef heim aptur, en Jesús varð eptir í Jórsölum.

María mey hjelt að hann hefði farið með Jósef; því hún varð systrum sínum samferða, og Jósef, sem fór í öðru lagi, hjelt að Jesús væri hjá móður sinni. Þegar þau voru komin nokkuð áleiðis, söknuðu þau sveinsins. Þau fóru þá að leita hans og spyrja eptir honum, meðal kunningja sinna og vina. En er þau gátu ekki fundið hann, snjeru þau aptur til Jórsala og voru mjög hrigg í huga. Þau gengu inn í musterið og fundu Jesúm þar, sitjandi meðal hinna ritningfróðu vitringa; hann las þar í bókum þeirra, um það sem spámennirnir höfðu sagt fyrir, og ræddi um það við þá. En þeir furðuðu sig á svörum og ræðum jafn ungs barns og sögðu: Þetta barn hefur notið mikillar náðar hjá guði. Þegar María mey fann son sinn, mælti hún: Hvers vegna hefur þú gjört okkur slíka skapraun? Við Jósef höfum leitað þín með sorg og kvíða í 3 daga. Jesús svaraði: Til þess er jeg kominn frá himnum, að jeg framkvæmi vilja míns föðurs. Síðan gekk hann út úr Jórsölum og varð móður sinni samferða heim til Nazaret.

Á heimleiðinni lagði Jósef margar spurningar fyrir drottinn vorn og mælti: Góði Jesús, hvar varstu? Jesús svaraði: Í musterinu hjá

fræðimönnum Gyðinga og hlýddi á kenningar þeirra. Jósef spurði: Höfðu þeir og það ritað að sonur guðs ætti að fæðast í heiminn eins og maður? Jesús svaraði: Það er ritað hjá Jesaia að sonur guðs skuli fæðast og verða maður, og birta mönnunum alla nauðsynlega vizku: Jósef spurði enn fremur: Geta þeir einnig vitað, hvar sá maður er? Jesús svaraði: Þeir skilja ekki þessa ritningu, og því þurfti jeg að ræða margt fleira við þá. Jósef sagði: Hefur þú lesið þessa ritningu, og hefur þú heyrt, hver þessi maður er? Jesús svaraði: Þenna mann, son guðs, Jesúm Krist, þekkir þú vel, hvað á jeg að segja þjer um hann? Þú hefur tekið á honum, gefið honum mat og drykk, og fylgt honum til fjarlægra landa. Jósef sagði þá: Jeg heyri það á svari þínu, að þú ert sjálfur þessi maður.

María mey spurði: Sonur kær, hvar varstú á næturnar, og hver gaf þjer fæðu? Jesús svaraði: Það gjörði frændkona þín, Elisabet, kona Sakkarías spámanns; hún gaf mjer mat og drykk, og í hennar húsi gisti jeg í næturnar, meðan jeg var í Jórsölum. Þegar þau komu til Nazaret dvaldi Jesús hjá þeim og var hlýðinn bæði móð-

ur sinni og hinum aldraða Jósef; og hann tamdi sjer alls konar dyggðir og guðsótta.

Jeg ætla nú að segja vinum Jesú Krists frá því, að jeg veit miklu meira ritað, um æfi hans áður hann varð þrítugur og hóf að kenna kristna trú, og hvetja lýðinn og uppörfa með ræðum sínum og kraptaverkum, eins og Jóhannes og hinir heilögu guðspjallamenn segja frá. Það er og ætlan manna, að hann hafi dvalið um hríð á eyðimörkinni, áður en hann varð tvítugur.

Jesús og Jóhannes voru báðir saman á sínum æskuárum, og komu sjaldan fyrir manna augu; því þeir tömdu sjer auðmýkt við lögmál guðs föðurs. Á þessum tíma nam hinn heilagi Jóhannes kristna trú og hin fornu lög, sem drottinn vor hafði gefið spámönnunum, hinar fimm bækur Mósis og öll boð og vilja vors drottins.

Þessir tveir spámenn lifðu saman í allskonar andlegum unaði og gleði. Hinn heilagi Jóhannes fjekk þá að sjá marga furðulega hluti, og hvernig mikill fjöldi engla kom og þjónaði drottni vorum, með lotningu og vegsemd. Öll dýr merkurinnar, stór og smá, komu til Jesú,

skapara síns, lutu honum og tóku við blessun hans.

Eptir þetta fór drottinn vor heim aptur úr eyðimörkinni, frá hinum heilaga Jóhannesi, til móður sinnar í Nazaret, og dvaldi þar hjá henni. Á hverju ári fór hann til Jórsala til hátíða þeirra, sem Móses hafði fyrirskipað í lögum sínum.

Þeir sem með Jesú voru og umgengust hann, sáu og heyrðu af orðum hans og verkum og öllu líferni hans, að hann var vissulega kominn frá himnum, og að guð hafði gefið honum fyllingu sinnar náðar. Hann var hófsamur, skírlífur, góður og ljúfur við alla menn, og gaf öllum hið bezta eptirdæmi; hann var svo siðprúður að allir, sem sáu hann og heyrðu, lofuðu verk hans og orð. Hann var yndislegur og þýður í öllu, og aldrei hefur neinn maður verið jafn fríður og vel vaxinn og hann var.

Andlitið var fagurt; hárið brúnt, dálítið hrokkið, og lá ætíð eins og það væri ný kembt. Augu hans voru mjög fögur; þau voru blá eins og heiðríkja, og tindruðu eins og ljós, eða jafnvel eins og Jakobsstjarnan; hvítan í augum hans var eins og mjólk og hrein eins og skuggsjá. Munnur hans var fríður; varirnar rauðar eins og

rós. Kinnarnar voru fagurrauðar og skeggið brúnt, æfinlega hæfilega mikið og eins og nýgreitt. Háls hans var hvítur eins og mjöll, og hendurnar hreinar og ósaurgaðar. Fingurnir voru langir og mjóir. Miðjan var grönn og svaraði sjer vel. Höfuð, hendur, fætur og allir limir hans, voru afbragðs fríðir og fimir í allri kurteysi. Þeir sem umgengust hann, lofuðu hann og alla siði hans. Klæði hans voru ætíð hrein. Kyrtill hans var jafnan eins fallegur og þann dag, sem móðir hans klæddi hann fyrst í hann. Aldrei komu skór á fætur hans, hvorki fyr nje síðar.

Einu sinni sat María mey ein inni hjá syni sínum, spurði hann um ýmislegt og mælti: Kæri son, ef jeg vissi þjer væri það ekki móti skapi, þá vildi jeg spyrja þig um nokkuð. Jesús svaraði: Seg mjer elskulega móðir, hvað það er, því jeg skal segja þjer það, sem þú vilt vita.

María sagði: Þú mátt ekki misvirða það við mig, sonur kær, þó jeg spyrji þig nokkurs. Jeg veit að þú ert skapari og herra himins og jarðar. En hvernig stóð þá á því, að þú vildir vera sonur minn? Jesús svaraði: Yfir því

máttu ekki undrast, góða móðir; því það var ályktað frá eilífð, þegar jeg var í upphafi hjá föður mínum, eins og jeg á að verða um alla eilífð. María mey spurði enn fremur: Hvar varst þú, áður en himin og jörð voru sköpuð? Jesús svaraði: Í guðdóminum og þríeiningunni; vjer vorum allir jafnvoldugir og jafnir, þegar vjer skópum himin og jörð. María mey sagði: Hverjir eru þeir þrír, sem eru guð? Jesús svaraði: Þeir eru guð faðir, sonur og heilagur andi; nöfnin eru þrjú, en guðdómurinn einn, sem hefur vald yfir himni og jörð og öllum heiminum. María mey mælti: Hvers vegna er jeg valin til að vera móðir þín, fyrst þið eruð þrír? Jesús svaraði: Til þess ljet jeg þig fæða mig í heiminn, að djöfullinn skyldi ekki hafa neitt vald yfir mjer, þar eð jeg væri bæði guð og maður. Jeg er guð frá eilífð, fæddur af föðurnum, og maður af Adamsætt, að því leyti, sem þú fæddir mig og gazt mig án nokkurs karlmanns tilverknaðar; þess vegna hefur djöfullinn ekkert vald yfir mjer. María mey sagði: Þú veizt alla hluti, og eins það, að jeg hafði einkis manns kennt, þegar jeg fæddi þig, heldur var hrein mey og er það enn. Jesús mælti: Jafn-

vel þó að djöfullinn hafi ekkert vald yfir mjer, reynir hann þó til að svíkja mig og ná mjer undir sitt vald; hann styrkir Gyðingana og æsir þá upp, til þess að smána mig, og til þess að kvelja mig til dauða. Þegar María heyrði Jesúm minnast á kvöl sína og dauða, varð hún mjög hrigg og mælti: Kæri sonur, hjarta mitt angrast af þessum orðum þínum, er þú mæltir nú. Á sú hrelling að liggja fyrir mjer, að Gyðingar deyði þig? Jesús svaraði: Elskulega móðir, vertu hughraust; það verður allt að rætast, sem um mig er ritað. Símon sagði þjer það í musterinu, að kvöl mín og dauði mundi verða þjer eins bitur, eins og hvössu sverði væri stungið í gegn um hjarta þitt. María mey sagði: Jeg get ekki verið óhrigg fyrst jeg hef heyrt um kvöl þína og dauða. Jesús mælti: Með kvöl minni og dauða, verður allur heimurinn leystur undan valdi djöfulsins. María mey mælti: Seg mjer eitt, sonur kær, hver á að leysa bæði karla og konur, frá valdi djöfulsins, ef þú lætur deyða þig? Jesús svaraði: Djöfullinn hraðar dauða mínum í því skyni, að hann muni fá sálu mína, þegar jeg dey; þó veit hann ekkert ráð, til að ná henni, því hann getur ekki

ásakað mig fyrir nokkra synd; þess vegna skal og máttur guðs svipta hann öllu valdi, fyrir það, að hann vill taka sálu mína með rangindum. Með því verður djöfullinn sigraður, en jeg mun stíga niður til helvítis, og með guðdómsmætti mínum taka þá þaðan burtu, sem tapaðir eru vegna synda sinna, og fara með þá til himnaríkis. María mey mælti: Jeg er ætíð svo hrigg, þegar jeg hugsa um kvöl þína og dauða. Jesús svaraði: Vertu örugg; því jeg segi þjer satt, að jeg mun rísa upp aptur, þegar jeg er búinn að líða kvöl og dauða, og þá skaltu sjá mig lifandi. María mey spurði: Nær ætlar þú að rísa upp aptur, og nær fæ jeg að sjá þig? Jesús svaraði: Hreina mey, 3 dögum eptir dauða minn, á sála mín að koma aptur til grafarinnar, og reisa líkama minn upp; þá fær þú að sjá mig lifandi. María mey mælti: Hefðir þú ekki sagt mjer, að þú ætlaðir að rísa upp frá dauðum, þá hefði hjarta mitt brostið, og jeg ekki lifað þinn dauðdaga. Jesús svaraði: Kæra móðir, þó þú hriggist mjög við dauða minn, þá mun þó gleði þín verða miklu meiri, þegar þú sjer mig upprisinn. María spurði hann enn fremur: Hvar ætlar þú að vera eptir upp-

risuna? Jesús svaraði: Hjá lærisveinum mínum ætla jeg að dvelja í 40 daga, og síðan stíg jeg til himna. María sagði: Seg mjer, kæri son, hverjir eru þeir lærisveinar? Jesús svaraði: Jeg ætla að taka 12 af bræðrum mínum og kenna þeim, að prjedika lýðnum og fræða hann um eilíft líf, og hvernig mennirnir skuli geyma sín fyrir valdi djöfulsins. María sagði: Kæri sonur og herra, á jeg ekki að sjá þig úr því þú ert farinn til himna, og hvern setur þú mjer þá í þinn stað? Jesús svaraði: Systurson þinn, hinn heilaga Jóhannes, og hina 12 postula; þeir skulu vera hjá þjer og hughreysta þig, og þú skalt einnig hughreysta þá. María sagði: Öll mín huggun er horfin, ef jeg má ekki ætíð vera hjá þjer. Jesús svaraði: Jeg og faðir minn skulum vera hjá þjer til eilífðar. Amen.

## *Leiðrjettingar.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| Bls. 16. | 4. | línu að neðan: | Marta les: María. |
| — — | 3. | — — — | kyrli les: kyrtli. |
| — 32. | 6. | — — — | sknlum les: skulum. |
| — 35. | 5. | — — — | mjök les: mjög, |
| — 37. | 3. | — — — | ern les: eru. |

*Hjá Egli Jónssyni bókbindara fást þessar bækur:*

Mynsters hugleiðingar í mat. 2 rd. innb. 2 rd. 40 sk.—3 rd.
Á. Helgasonar Prjedikanir í mat. 2 rd. innb. 2 rd. 80 sk.
T. Sæmundssonar Ræður 80 sk.
Vídalíns Hússpostilla í mat. 3 rd. í gyltu alsk. 4 rd. 32 sk. til 4 rd. 48 sk.
Vigfúsarhugvekjur í mat. 1 rd. innb. 1 rd 32 sk. til 1 rd. 40 sk.
Lýsing Íslands á miðri 19. öld, 48 sk.
Karlamagnúsarsaga, 80 sk., innb. 1 rd.
Lúters Æfisaga, 48 sk.
Myndabók handa börnum, I. með 30 myndum, 20 sk.
—— — — II. með 30 myndum, 20 sk.
Ritgjörð um ætlunarverk bóndans, I. 20 sk.
Sögur úr 1001 nótt, I. 72 sk. innb. 1 rd.
Kvæði og nokkrar greinir um skáldskap og fagrar mentir, eptir B. Gröndal, 32 sk.
Piltur og Stúlka, dálítil frásaga, eptir J. þ. Thoroddsen 64 sk. innb. 88 sk.
Mjallhvít. Æfintýri handa börnum, með 17 myndum, 24 sk.
Ljóðabók Jóns þorlákssonar, fyrri deild 80 sk.
Ljóðabók —— síðari deild 1 rd. 16 sk.
Llóðmæli, S. Pjeturssonar 48 sk.
Leikrit, —— 32 sk.
Um jarðepli, æfi þeirra, yrkingu og nytsemi 8 sk.
Stafrof handa börnum á prentpappír 2 sk.
Atli og Búalög innb. 56 sk.

Tíðavísur eptir J. Hjaltalín 32 sk.
Þ. Markússonar Ljóðmæli innb. 16 sk. til 20 sk.
Örvar-Odds drápa, niður sett 48 sk.
Snót, nokkur kvæði eptir ýmiss skáld 64 sk.
Th. Jónassen, Um sættamál 32 sk.
Nýtt stafrofskver með mynd fyrir framan, innb. 28 sk.—32 sk.
Nýársgjöf J. Haldórssonar (með forskript) 48 sk.
Fingrarím í velskub. 48 sk.
Gísla saga Súrssonar, 64 sk.
Þórðar saga hreðu, 32 sk.
Vasabækur (skrifbækur) innb. 32 sk. til 48 sk.
Skrifbækur, stórar og smáar í átta, fjögra og tveggja blaða broti, og er verð á þeim eptir stærð.

Hjer að auki hef jeg ýmsar danskar bækur.

---